


VI. Winnipeg, Man. Nr. 12

# Nýjárskveðja.

Nú er 4. árgangur blaðsins "Dagsbrún" á enda, og þökkum vér stuðningsmönnum hennar öllum fyrir styrk þann, er þeir hafa léð henni, fyrir baráttu þá og stríð, er þeir hafa átt í fyrir hana. Það er ekki hægt að koma nokkrum hlut í heiminum áfram nema með baráttu, og til þess að ryðja nýjum hugsunum og hugmyndum braut, þarf stöðugt, látlaust erfiði og stríð. Það er ekki nóg að taka snarpa kviðu eitt sinn fyrir alt og leggja svo hendur í skaut og horfa á hvernig gengur. Þeir, sem svo hugsa, mega eins vel kasta frá sér allri hugsun um nokkra framför, þeir þurfa ekki að hugsa, að mál það vinni sigur, sem svo er farið með, þeir meiga eins vel kasta því á hylluna og láta það verða þar ormsmogið og myglað. Augu manna þurfa einlægt að vera opin, hugurinn þarf einlægt að vera vakandi ef að sigurs skal vænta.

Það þótti í fyrstu fífldirfska ein, þegar vér félausir lögðum út í það, að halda blaði út í þessa stefnu, fyrir 4 árum síðan. Menn héldu að það myndi undir eins fara um koll, og nógar voru hrakspárnar á alla vegu. Við ofurefli var að eiga, þar sem móti var allur kyrkjuflokkurinn, en vér héldum að landar væru svo vel viti bornir, að þeir kynnu að meta það, svo drenglyndir, að þeir vildu hjálpa oss; og víst má segja það, að margur maðurinn hefir staðið vel og heiðarlega með "Dagsbrún" alt til þessa, og vér vonum og treystum því, að þeir muni gjöra það framvegis.

"Dagsbrún" hefir líka áunnið töluvert. Þó að ekkert sé annað-

talið henni til gildis, þó að alt sé að vettugi virt, sem hún hefir gjört í trúmálalegu tilliti, þá er þó eitt, sem að aldrei verður af henni dregið, en það er það, að hún hefir vakið menn til að hugsa. Hún hefir gjört skilning manna skarpari í þeim efnum, sem hún hefir farið með, en áður. Og það er þó alla daga nokkuð.

En hún hefir gjört meira. Hún hefir lamið á vítistrúnni og djöflatrúnni gömlu, svo að ófreskjur þessar geta nú ekki lengur höfði haldið. Margur maðurinn var áður kvíðandi og hugsjúkur út af þessu. Á banasænginni gjörði það menn órólega, að hugsa til þessa; í fullu fjöri urðu menn stundum vitskertir út af því, annaðhvort af því, að hugsa til þess að sjálfir þeir mundu lenda í "hinu vellandi dýki," eða þá ættmenn og vinir þeirra. Þessa höfum vér nú næg dæmi. En nú er þessi forynja að sökkva í jörð niður. Dagsbrún hefir, um leið og hún verkaði þetta, tekið fyrir þrælsóttann í trúmálunum, sýnt hve hann er svívirðilegur og mönnum ósamboðinn, sýnt hve fáránlegt það var, að ætla, að þrælsóttinn gæti gjört nokkurn mann góðan eða hreinan í guðs augum. Dagsbrún hefir, að vér hyggjum, sópað hinum bókstaflega innblæstri biblíunnar gjörsamlega burtu. Það má geta nærri, hvort að kyrkjumennirnir hefðu ekki reynt, að halda skildi fyrir honum, ef að þeir hefðu treyst sér til þess, en þeir hafa ekki gjört það, af þeirri einföldu ástæðu, að þeir sá sér það ómögulegt. Og hver maður sem lesið hefir Dagsbrún með nokkurri eftirtekt, mun einnig sannfærðir um það, að þeim hefði aldrei getað lukkast það. Þeir hafa þagað við öllu því, sem Dagsbrún hefir sagt og ekki svarað einu orði, hvernig sem hún hefir tætt bókstafinn í sundur.

En með því að eyðileggja bókstafinn, hefir hún um leið rutt burtu hinum ljótu og grimdarlegu hugmyndum um guð. Hún hefir komið vitinu fyrir menn, svo að þeir sæju það, að kærleikans guð á himnum gat þó ekki verið verri en mennirnir voru. Menn máttu þó ekki hugsa sér, að hann væri svo vondur, að hann fremdi glæpi þá, sem hver maður hefði verið hengdur fyrir, ef að hann hefði framið þá, svo sem að stela og ljúga, að myrða saklausar konur og börn o. fl. Með þessu hefir siðferðishugmynd manna verið lyft á æðra og hærra stig. Um leið og guðshugmynd manna verður betri og mannúðlegri og kærleiksmeiri, þá verða einnig mennirnir betri og kærleiksmeiri. Það ætti hver maður að sjá, og það er þó ekki og getur ekki verið einskisvirði.

Dagsbrún hefir tekið ofan í endurlausnar-kenninguna og sýnt, hvað blóðfórnin var heiðingleg, hvað endurlausnin er ranglát. Hún hefir sýnt, að blóðfórnin, fórn Krists, er leyfar af manna- og dýra-

blótum heiðingja. Hún hefi sýnt, hve mikið ranglæti það hefði verið af guði, að fara að slengja sök á saklausann, að það væri að umhverfa öllu réttlæti, að láta saklausan líða fyrir sekan, og hún hefir sýnt, hversu siðspillandi það er að kenna það, að menn geti sloppið frá hegningu fyrir illgjörðir sínar með því, að annar taki út alla hegninguna. Slíkt væri að ala og uppörfa menn til illmennsku og fúlmennsku. Og sannarlega hlýtui hver og einn að sjá það, að þegar skálkaskjólið er burtu numið, þá mundi það bæta menn, en ekki spilla þeim. Og er það þó nokkurs virði.

Dagsbrún hefir gjört menn fróðari. Hún hefir frætt menn um villurnar og mótsettningarnar í trúarbrögðunum, hún hefir frætt menn um hugsanir margra heimsins mestu og beztu manna, hún hefir frætt menn um uppruna hinnar kristnu trúar, uppruna trúar Gyðinganna. Hún er það eina rit á íslenzku máli, sem komið hefir með nokkuð í áttina til samanburðar á trúarbrögðum heimsins, og sannarlega verða menn ekki verri fyrir það, þó að þeir verði vitrari.

Með þessu öllu hefir Dagsbrún gjört menn sjálfstæðari en áður, sjálfstæðari að hugsa og skilja. Hún hefir losað hugsanina úr fjötrum bókstafs og hjátrúar. En sé hugsanin í þeim fjötrum bundin, þá er hver maður andlega og siðferðislega lamaður.

En það er ekki nóg með það, að hafa gjört þetta einu sinni. Það þarf að ítreka það aftur og aftur. Það þarf að halda mönnum vakandi. Til þess ættu menn að hugsa, og þeir, sem nokkuð virða þetta við Dagsbrún, þeir ættu að styðja hana og efla hana framvegis. Hún er lesin, býst ég við, sjálfsagt af 1,000 manna, en þó getur hún naumlega borgað þennan 200 dollara kostnað fyrir pappír og prentun. Blaðið er ritað fyrir — ekki neitt.

Já, kæru vinir, vér þökkum yður, sem með ráði og dáð hafið styrkt þessa stefnu, fyrir það, sem þér hafið unnið, en um leið verðum vér að skora á yður, að halda áfram að vinna fyrir frjálsri hugsun, fyrir frjálsum trúbrögðum, fyrir veglegri guðshugmynd, fyrir eyðilegging hjátrúar og hindurvitna. Frelsið bræður vora og systur úr fjötrunum með því, að vinna með oss og vinna af alefli. Annað dugar ekki. Vér megum ekki vera hálfvolgir þegar um jafnmikilsvarðandi atriði er að ræða. Útvegið oss nýja kaupendur; standið vel í skilum og fáið sem flesta til að lesa Dagsbrún.

Þetta treystum vér, sem höldum Dagsbrún út, yður til að gjöra, vér treystum yður til drengskapar, vér treystum yður til framlaga, vér treystum yður til aðstoðar og samvinnu.

Að endingu óskum vér öllum vinum vorum gott og gleðilegt nýtt ár; vér óskum hinni frjálsu hugsun sigurs; vér óskum menningunni þroskun, siðgæðinu efling og oss öllum vellíðan.

---

# ZÓROASTERS-TRÚ.

## Eftir Bundehesh bókunum.

---

Fyrirlestur fluttur í Winnipeg 1893.

Eftir séra M. J. Skaptason.

---

Niðurl.

Hinar eldri bækur Zend-Avesta, biblíu þeirra Parsanna, eru að miklu leyti bænir, syndajátningar og iðrunarsálmar. Ég hefi einu sinni áður komið með bæn úr Galha-bókinni, en ég get ekki stilt mig um að koma með hana aftur, hún er svo fögur. Hún er þannig:

"Góðar eru hugsanir, gott er tal, og góð eru verk hins hreina Zarathustra. Með upplyftum höndum þrái ég þá gleði—hin hreinu verk hins heilaga anda, Mazda; — tilhneygingu til að fremja góð verk. Ég hefi falið Guði sálu mína, og ég ætla að kenna það, sem hreint er, svo lengi sem ég get. Að eilífu vil ég halda fram hreinleika hjartans og hugarfarsins. Kenn þú mér, Ahura-Mazda, af sjálfum þér, þig hefi ég hugsað að vegsama. Ó! Mazda! sem hinn fyrsta, lofi þig sála mín, þú skapari, sem hvílist, drottinn himnaanna! — drottinn hins góða! Þú hinn fyrsti myndasmiður, sem fullgjörðir hið hreina og heilaga sköpunarverk. Ég vesama Ahura-Mazda, sem hefir skapað fénaðinn, skapað vatnið og hin góðu tré, ljóma jóssins, jarðarinnar og alls hins góða. Vér lofum og vegsömum sálir hinna hreinu karla og kvenna — alt sem er fagurt og hreint og ódauðlegt. Vér heiðrum hinn góða anda, hið góða ríki, hið góða lögmál, alt sem er gott. Legg þú eyra við minni lofgjörð og heyr. Hinir vitru (guðirnir) hafa skapað alt. Vondar kenningar skulu ekki aftur eyðileggja heiminn."

Þannig báðust Aryanar fyrir, fyrir einum 4—5000 árum. En nú skal ég koma með dálítið úr Kordah Avesta:

"Í nafni Guðs, gjafarans, sem fyrirgefur (syndir), sem er ríkur að kærleika; lof og dýrð sé nafni þínu, Ormazd, þú Guð með nafn-

inn: 'Þú sem varst og ert og verður.' Þú hinn himneski meðal hinna himnesku. Af öllum mætti þakka ég þér, þú hin mikla vera, sem skapar og eyðileggur og fyrir eigin ákvörðun tímans, styrksins og spekinnar ert hærri en hinir sex Amshaspands (ljósfurtar)...... Alt hið góða meðtek ég að þínu boði, ó, Guð! og hugsa, tala og framkvæmi það. Ég trúi á hið hreina lögmál; með góðum verkum leita ég fyrirgefningar allra synda. Ég geng inn á hinn góða veg til sælunnar bústaða. Ógnanir og skelfingar vítis veri mér fjarri.

Lof sé stjórnaranum, drottni, sem launar þeim, sem vinna góðu verkin, eftir vilja drottins sjálfs, honum sem að lokum hreinsar hina hlýðnu, hreinsar jafnvel að lokum þá hina óguðlegu í víti. Lofaður sé skaparinn Ormazd, hinn alvitri, máttugi, sem er ríkur í mætti sínum. Lof sé hinum 7 Amshaspands; lof sé Ized Bahram, hinum sigursæla eyðileggjara óvinanna."

Þá er enn lofsöngur til Mithra, frelsara þeirr Parsanna:

"Þú Mithra, sem með þínum löngu örmum grípur yfir alt með Mithra styrk. Það sem er í Austur-Indlandi, grípur hann, það, sem er í Vesturlöndum slær hann og það, sem er á sléttum Rauha og það sem er á endimörkum jarðar. Ég hugsa í hjarta mínu: enginn maður með hundraðföldum styrkleika hugsar svo mikið illt, sem Mithra með himneskum styrkleika hugsar gott. Enginn maður með hundraðföldum styrkleika hugsar svo mikið illt, sem Mithra með himneskum styrkleika hugsar gott, enginn maður með hundraðföldum styrkleika gjörir svo mikið illt sem Mithra með himneskum styrkleika gjörir gott......Sterklega gengur Mithra fram, máttugur í stjórn gengur hann fram......"

Þá er hér lítið sýnishorn af iðrunarsálmi:

"Ég iðrast allra synda, allra vondra hugsana, orða og verka, sem ég hefi hugsað um í heimi þessum, líkamlegra, andlegra, jarðneskra, himnskra. Ég iðrast þeirra allra í nærveru yðar, þér trúaðir. Ó! drottinn! Fyrirgef mér með hinum þrem orðum...... Ég framber fyrir yður, sem eruð Amshaspand, fórnir og lofgjörðir með hjartanu, með líkamanum, með mínum eigin lífskröftum, með líkama og sál......Ég lofa hreinleikann sjálfan, ég hrindi frá mér djöflunum, ég er þakklátur skaparanum Ormazd fyrir alt hið góða, ég gjöri mig ánægðann þrátt fyrir mótstöðuna og ranglætið, sem kemur frá Gana-Mainyo og geng að því í von um upprisuna." Svo kemur upptalning allra þeirra synda sem hann iðrast, syndanna við föður, móður, bróður, systur, vini, ættingja, yfirmenn, undirmenn, nágranna, samborgara. Svo lætur hann í ljósi viðbjóð sinn við öllu hinu illa, hræsni, fláræði, svikum, hefndargirni, hrekkjum,

ósiðsemi allri, óráðvendni allri, og lýkur með þessu: "Ég er samrýmdur öllu hinu góða, ég hata alt hið illa. Fyrir hið góða er ég þakklátur, ójöfnuð sætti ég mig við. Ég sætti mig við og gjöri mig ánægðan með hegninguna við brúna (Chinevat, sem allir verða að fara yfir um til himnaríkis), við skuldbindingar og kvalir og typt anir hinna máttugu í lögmálinu, við hegningu hinna þriggja nátta," (syndararnir áttu í þrjár nætur að hreinsast í víti).

Þetta er nú ofurlítið sýnishorn af Zend-Avesta, af því hvernig menn hugsuðu og trúðu og báðust fyrir 1000—2000 árum fyrir Krist. Vér getum séð það á þessu, að það hafa verið fleiri en Gyðingar einir, sem hafa haft einhverja hugmynd um synd og endurgjald, um hið góða og illa, um skaparann og annað líf. það dugir ekki lengur að berja það fram, að þeir hafi verið þeir einu, sem höfðu hugmyndir um þetta, því að þessir menn, sem þannig töluðu og hugsuðu, þeir voru uppi fyrir daga Gyðingaþjóðar og þeim óskildir. Bækur þessar hafa verið skrifaðar löngu á undan ritningunni, og enginn getur neitað því, að hér komi fram skínandi fagrar og háleitar hugmyndir.

Það kann sumum að þykja ég færist fullmikið í fang, er ég fer að bera saman hina gömlu Ásatrú forfeðra vorra við þessa trú hinna eldgömlu Parsa, en það kemur þá af því að menn hafa þekt svo lítið til þjóðanna gömlu austur þar og sambands vors við þær. Þetta eru frændur vorir, ein grein af hinni miklu þjóð, er getið hefir af sér flestar Norðurálfuþjóðir ásamt Indum og Parsum. Oss þarf því ekki að furða á því, þótt margt sé líkt með skyldum, þó að yngri bróðirinn hafi eitt eður annað sameiginlegt við hinn eldri.

Hvað goðafræðina snertir, þá sjáum vér, að hvorutveggja trúin hefir sín góðu og vondu öfl, er eiga í stríði hvert við annað. Þannig eiga Ásar einlægt í stríði við tröll og óvætti. Hrímþussarnir og alt þeirra kyn eru nokkurskonar djöflar. Loki er Ahriman og afkvæmi hans Fenrisúlfur, Miðgarðsormur og Hel, eru andstæðingar guða og manna. Jafnan var Þór í Austurvegsferðum að berja á tröllum og hrímþussum. Það var loka lið rétt eins og Daevas hjá Parsum var lið Ahrimans. Það var ljósið sem barðist við myrkrið hjá báðum, hið góða við hið illa. Bak við bæði trúarbrögðin liggur hugmyndin um æðri ósýnilegri guð, Alföður hjá Norðmönnum en Zerana-Akerana hjá Zóroaster. Hann er það sem Zóróaster lætur skapa þá Ormazd og Ahriman, er guð sá eilífur og ótakmarkaður. Hjá báðum trúarbrögðunum er hið illa bundið og í fjötrum um tíma, guðirnir norrænu binda Loka og Fenrisúlf svo þeir rakna ekki fyr en í Ragnarökri. Eins er um Ahriman og djöfla hans, þeim er steift

niður í afgrynnið Duzahk og verða, að sitja þar í 3000 ár þangað til þeir grafa sér göng í gegnum jörðina, ríkja þar um tíma eins og Einherjar í Valhöll, en loks slær öllu saman í óttalegt stríð. Hið illa og góða getur ekki samþýðst. Orustan verður voðaleg hjá báðum, allir kraftar eru leiddir fram illir og góðir. Norðmenn láta jötna alla koma fram á völlinn Vigrið, Hrym með Hrímþussum sínum, Loka með öllum Heljarsinnum, Surt með Múspellssonum; en á móti koma Óðinn ásamt goðunum og öllum Einherjum; þar er barist svo að hver vegur annan og loks brennur upp heimur allur í feykilegum loga. Eins er það hjá Zóroaster, að þar steypist halastjarna ein úr liði Ahrimans ofan á jörðina og kveikir í henni svo hún verður öll í einu báli og rennur sem málmur bræddur. Hin æðsta dygð hjá báðum er hreysti í hernaði, er það meira skoðað sem siðferðislegt stríð hjá Zóroaster, stríð við hið illa, en hjá Norðmönnum er það meira líkamlegt stríð og líkamleg hreysti, sem mest er lögð áhersla á. En þó ber þess að gæta, að hinir illu óvættir, tröll og hrímþussar, sem Þór er látinn berja á, eru hin vondu öfl, er spilla heiminum, íklædd í myndir hrímþussa og trölla.

Þá kemur ný jörð og nýr himin hjá báðum eftir bruna heimsins, byggist sá heimur nýjum mönnum er lifa munu eilíflega. Báðir trúflokkarnir halda fram öðru lífi, launum vondra og góðra. Djöflar og vondir menn eru hjá Zóroaster látnir fara í afgrynnið Duzak, en hjá Norðmönnum til Nástrandar. Edda segir svo: Á Náströndum er mikill salr ok illr ok horfa í norðr dyr, hann er ok ofinn ormahryggjum, vita ormahöfud inn í húsit ok blása eitri, svá at eptir salnum renna eitrár, ok vaða þær ár eiðrofar ok morðvargar.

Sal veit ek standa
sólu fjarri
Náströndu á
norðr horfa dyrr.
Falla eitrdropar
inn af ljóra
sá er undinn salr
ormahryggjum.

Skulu þar vaða
þunga strauma
menn meinsvara
ok morðvargar.
En í Hvergelmi er verst;

Þar kvelr Níðhöggr
náí framgengna.

En hjá Zóroaster fellur eldflóðið, er jörðin brennur, ofan í afgrynnið Duzahk, heimkynni Ahrimans, og skolar með sér syndurum öllum, verða þeir að vaða þessa logandi elfu í þrjá daga og þrjár nætur. Þá eru þeir lausir. En eftir er þá Ahriman og djöflar hans og losna þeir ekki fyr en seinna.

Margt er annað líkt en þetta. Óðinn er sama hjá Norðmönnum sem Ahriman hjá Zóroaster, báðir skapa himin og jörð og menn; báðir eru foringjar hinna góðu vætta móti hinum illu vættum. Loki er það sama hjá Norðmönnum sem Ahriman hjá Zóroaster. Amshaspands hjá Zóroaster, fylgiliðar Ormazd eru Æsir hjá Norðmönnum, en Hrímþussar og jötnar eru Daevas eða djöflar hjá Zóroaster. Baldur, er spámaðurinn Sosiosch, er Ormazd sendir fyrir heimsendir til að snúa mönnum til réttrar trúar. Þá er brúin Bifröst, regnboginn. Brú þá trúðu Norðmenn að hinir dánu þyrftu að fara til annars heims, og eins var það um brúna Chinevat hjá Zóroaster, hún náði af fjallinu Albordj til himins og urðu allir dánir menn þá brú að ganga til himnaríkis.

Þá er frumnautið eða uxinn Adudab hjá Zóroaster hið sama sem Ýmir í Eddu. Í Eddu segir að þegar Ymir svaf, þá fékk hann sveita, óx þá undir vinstri hönd honum maður og kona. En hjá Zóroaster stendur, að eftir að frumnautið dó af völdum Ahrims, þá spratt hinn fyrsti maður, Kaiomarts, fram af hægra herðarblaði nautsins en af vinstra herðarblaðinu spratt Goshurun. Ennfremur spratt alt dýraríkið fram af líkama mansins. Þá er það og líkt er Kaiomarts, hinn fyrsti maður hjá Zóroaster er bæði karl og kona, og það hjá Norðmönnum, að þá er Ýmir svaf, þá gat einn fótur hans son við öðrum. Þá er og sköpun mannanna eigi ólík. Þar Edda segir, að þeir bræður Börssynir gengu með sjáfarströndu og fundu tré tvö og tóku upp trén og sköpuðu af menn. En Zóroaster segir að Ahriman hafi drepið Kaiomarts, og óx þá tré upp af líkama hans og fæddu tíu pör karla og kvenna; voru hinir fyrstu menn nefndir Meshia og Meshiane, en Edda nefnir þá Ask og Emblu. Þá er sjálft nafnið himin, eins og mörg önnur nöfn vor, þar að austan; ætla málfræðingar að himinn sé komið af Himaleya; svo nefnast hin himingnæfandi fjöll norður af Bengalsléttum, norðan við Ganges dalinn.

Af Ýmir jötni sköpuðu Börs synir Óðinn, Vili og Ve, heim allan. Edda segir að þeir hafi flutt hann í mitt Ginnungagap og gjörðu af honum jörðina, af blóði hans sæinn og vötnin; jörðin var gjör af holdinu, björgin af beinunum, grjót og urðir af tönnum og

jöxlum og af þeim beinum er brotin voru, af blóðinu sjóinn, af höfði himin og af heila skýin. En aftur lætur Zóroaster alt fræ til allra lifandi skepna vera niðurlagt í frumnautinu Adudab.

Þá er og hyldýpið eða afgrynnið Duzahk, þar sem illir andar og vættir áttu að geymast, mjög svipað ginnungagapi í Eddu. Í ginnungagapi áttu hrímþussarnir að halda til eins og Ahriman og djöflarnir í Duzahk, því Edda segir að ein rót asksins Yggdrasils sé með Ásum, önnur með hrímþussum, þar sem forðum var ginnungagap.

Það er ekki ætlan mín með þessu að bera það fram, að Norðmenn eigi ekkert í hinni norrænu goðafræði, að þeir hafi rænt eða stolið hugmyndum hennar frá Zóroaster, heldur hitt, að sýna fram á frændsemi flokkanna, skyldleika hugmyndanna. Það hefir nýlega verið borið fram af Norðmanni nokkrum, dr. Bugge, að Edda væri allri stolið úr biblíunni og frá gömlum kyrkjufeðrum. En í stað þess mætti miklu fremur segja að norrænu þjóðirnar hefðu borið með sér austan að leifar hinnar fornu trúar móðurþjóðarinnar, sem þær eru af sprottnar, hafi svo hugmyndir þessar lagast og ummyndast eftir atburðum, háttum, hnattstöðu og ýmsum atvikum, er áhrif hafa haft á þjóðina, tekið inn í sig nýjar hugmyndir, en einlægt geymst mann fram af manni, öld eftir öld, þangað til þeir Snorri og Sæmundur, eða hver það hefir nú verið, hafa dregið það af hugmyndum þessum saman í heild, er þeir hafa yfir komist og fært í letur. Væri vel að einn eður annar hinna yngri menntamanna Íslands rannsakaði þetta til hlítar. Málið er sannarlega þess vert að því sé gaumur gefinn, þegar eins er farið að með fornfræði vora og dr. Bugge gjörir. — En hins vegar má sýna það, að Gyðingar hafa sótt all-mikið til Zóroasters. Margar persneskar hugmyndir hafa við herleiðinguna komist inn hjá Gyðingum og þaðan hafa þær komist inn í kristnu trúna, og höfum vér í fleiri aldir drukkið af sama brunni og hinir gömlu Parsar, þótt oss hefði síst komið það til hugar. Þegar ég tala um Eddu og neita því að hún sé fengin að láni hjá gömlum biblíusögum, kyrkjufeðrum eða munkum, þá tek ég undan formála hennar, sem virðist liggja í augum uppi, að sé munkaþvættingur, er með svipuðum stýl og sumar biskupasögurnar; talar um veldi Tyrkja í Asíu, sem ekki var fyr en milli 13 og 1400 eftir Krist o. s. frv.

Ef vér förum að skoða það hvað af hugmyndum þessum hafi slæðst inn í Gyðingatrúna, þá verðum vér að taka oss stöðu um herleiðinguna, frá því að Nebuchadnesar fyrst flutti Gyðinga austur, um árið 597 fyrir Krist, og þangað til Cyrus gaf þeim heimfararleyfi um 536. Þá ríktu þessi aryansku trúarbrögð hjá Persum, þjóð

þeirri, sem Gyðingar voru fluttir til, sem herteknir menn. Þeir hafa séð þessi trúarbrögð allsstaðar í kringum sig, húsbændur þeirra og herrar hafa haft þau daglega um hönd, þau voru ekki svo fjarska ólík hinni fyrri trú Gyðinga. Báðir trúa á andlega ósýnilega guði, er áttu að stjórna heiminum og höfðu skapað hann. Það sem Gyðinga hrylti mest við, var það, er nágrannaþjóðir þeirra dýrkuðu guði undir einni eður annari mynd, mannsmynd, nautsmynd eða eitthvað þessháttar, en það sáu þeir ekki hjá Persum. Llósguðinn Ormazd var ósýnilegur, svo var og hinn persneski djöfull Ahriman. Þegar nú Gyðingar komu þangað og sáu og heyrðu þetta fyrir sér, þetta stríð milli hins illa og góða, milli hinna vondu makta og hinna góðu, þá hefir smátt og smátt farið að koma upp hjá þeim hugmyndin um þetta voðalega vald, þennan voðalega myrkranna engil, Ahriman. Sú eina bók sem fyrir herleiðinguna (fyrir 600) er skrifuð og talar um Satan, talar um hann sem engil guðs, guði undirgefinn og hlýðinn. Hann kemur með börnum guðs til að ganga fram fyrir drottinn; (sjá Job. 2. k.) Job lætur guð tala til satans eins og annars ráðanauts. Drottinn segir til satans: "Enn þá er hann, nefl. Job, staðfastur í sinni guðrækni, þó þú hafir egnt mig móti honum." Og svo í 6. v. sagði drottinn til satans: "Sjá þú! hann sé í þinni hendi; en spara hans líf." Og engillinn, satan, hlýðir drottni. Hann freistar Jobs á allar lundir, hann sviftir hann eignum öllum og ástvinum, konu, börnum og heilsu, en tekur ekki hans líf. Þetta er nú ekki sérlega líkt hinni seinni hugmynd um djöfulinn, þegar hann var orðinn alvaldur yfir jarðríkinu, þegar hann bauð Kristi öll ríki veraldarinnar og þeirra dýrð; það er ekki líkt þeim djöfli, sem postularnir segja frá að hafi háð stríð á móti guði almáttugum; ekki mjög líkt hugmynd þeirri er gjörir djöfulinn almáttugan, eða því sem næst, og sjálfsagt alvitran, allsstaðar nálægan og eilífan. Nei! Gyðingar þektu ekki þennan djöful eða þessa voldugu veru, sem stríddi á móti sjálfum guði, fyrri en þeir fræddust um hana hjá Persum. Þeir þektu ekkert til þessa óttalega ófriðar milli satans og guðs. Þeir þektu ekkert til þess að satan ríkti á jörðunni fyr en þeir heyrðu það af Persum, að þessi myrkranna fursti, Ahriman, hefði fyrst verið bundinn í 3000 ár og svo hefði hann grafið sig í gegnum jörðina og ríkt svo á henni ásamt ljósguðnum, í þrjú þúsund ár. þau verk, sem seinni tíma Gðingar tileinkuðu djöflinum, þau tileinkuð Gyðingar hinir fyrri, fyrir herleiðinguna, Jehóva. Það er Jehóva, eða réttara Jahve, sem forherðir hjarta Faraós. Hann sendir engla sína niður á jörðu til að hegna mönnum. Það er engill drottins, sem stendur frammi fyrir Bíleam. Það er Je-

hóva, sem rekur hina fyrstu menn úr aldingarðinum Eden, það er Jehóva, sem tortímir öllu mannkyninu í syndaflóðinu, það er Jehóva, sem lætur rigna eldi og brennisteini yfir Sódóma og Gómorra, það er Jehóva, sem lætur allar plágurnar koma yfir Egyptaland, það er Jehóva, sem deyðir margar þúsundir manna, er þeir vildu ekki hlýða öllum kreddum þeirra Móses og Aron. Í 2. Sam.b., 24, er drottinn sjálfur látinn koma Davíð til að telja fólkið. Er bók sú rituð fyrir herleiðinguna; en í Kron. 21, 1. er talað um sama atburð og þar er satan látinn koma Davíð til þess, en sú bók er skrifuð eftir herleiðinguna. Í Paradísarsögunni er ekki talað um neinn djöful. Það er höggormur en ekki djöfull, sem ginnir Evu. Hugmyndirnar um djöfulinn, sem höfðingja, er stríði á móti guði, kemfyrst fram hjá hinum yngri höfundum eftir herleiðinguna, þeir höfðu fengið þessar hugmyndir hjá Persum, þeir höfðu heyrt þar um hið voðalega stríð milli þessara tveggja guða, ljósguðsins Ormazd og myrkraguðsins Ahriman. Í Tobíasarbók er djöfullinn allra mesti garpur. Í nýja testamentinu er hann kallaður flugnahöfðingi Belsebub, eða hinn óhreini guð Belsebub. Hjá Persum sj um vér að Ahriman í fyrsta skifti sem hann ræðst á himnaríki verður hræddur er hann sér að herskarar sínir geta ekki fylgt sér, hann verður því hræddur og treystist ekki að stríða einn við himna guðinn og alt hans lið, hann hendist því ofan á jarðríki og smýgur inn að miðbiki jarðar, síðan fer hann í hvað eina á jörðu lifandi og líflaust og spillir því. Þetta er svo greinileg fyrirmynd, sem nokkuð getur verið, á því, er nýja testamentið lætur hann fara í einn manninn á eftir öðrum og gjöra þá djöfulóða. Hjá Persum er það Ahriman sem freistaði hinna fyrstu manna, Mesnia og Meshiane. Hann narraði þau til að drekka geitarmjólk, og svo fékk hann þau til að eta af tré einu, og við það mistu þau hundrað hluti af sakleysi sínu en einn hluti sakleysis þeirra varð eftir. Eins er því varið með þennan seinni tíma djöful Gyðinga. Þeir láta hann koma fram alveg eins og Ahriman til þess að spilla sköpunarverkinu, þeir kenna honum að syndin og dauðinn sé kominn í heiminn. Sjá þetta gamla eftir postulann: Eins og syndin er fyrir einn mann komin í heiminn eins er líka dauðinn kominn fyrir syndina því allir hafa syndgað. Eins og Ahriman var bundinn og hneptur í afgrynnið Duzahk í fleiri þúsund ár, eins og hann stríddi móti ljósguðnum Ormazd en var steyft niður af himni, alveg eins átti djöfullinn að hafa það, honum var steyft niður til helvíts eins og við munum allir. Þar var hann bundinn og átti að geymast dómsins. Veldi hans var hnekkt um stund alveg eins og Ahrimans, en svo kemst hann aftur

upp á jörðina eins og Ahriman, gengur þar ljósum logum og forfærir konur og karla. Þegar menn kynnast þessari persnesku sögu, sem er eldri en biblían, þá ætti enginn heilvita maður að geta verið í nokkrum efa lengur, hvaðan þetta sé komið til Gyðinga, því ef að Gyðingar og kristnin öll hefir ekki fengið þetta frá Persum, þá hljóta Persar að hafa fengið það hjá þeim. En hvernig á maður, sem lifir 1000 árum fyrir Krist, að geta fengið hugmyndir að láni hjá mönnum, sem lifa 1000 árum seinna? Kannske orþodoxian geti sagt oss það, sagt oss, hvernig vér eigum að fá hugmyndir hjá mönnum, sem lifa árið 2893. Upprunalega var mannkynið saklaust og fullkomið hjá Zóroaster, og svo var það einnig hjá Gyðingum. Það voru ekki Gyðingar einir, heldur þessir gömlu Parsar einnig, sem trúðu á ósýnilegan andlegan guð. Zerana-Aherane, sem skóp Ormazd og Ahriman var sannarlega andlegur, eilífur guð, fullt eins hreinn og heilagur og hugmyndir þær, er Gyðingar gjörðu sér um skaparann. Þá eru Messiasar hugmyndir Gyðinga og Persa harla líkar. Gyðingar þráðu þann sendiboða guðs, mikinn spámann og konung, er kæmi og gjörðist foringi þeirra og frelsaði þá fyrst frá ánauðaroki hinna austurlenzku þjóða og seinna frá kúgun Rómverja. Þeir vonuðust eftir að þessi konungur, sem þeir hugsuðu sér veraldlegan, mundi leggja allar þjóðir undir fætur þeirra, gera þá sjálfa að höfðingjum jarðar, — en alt að einu vonuðust Parsar eftir frelsara sínum, Sosiosh. Hann átti að koma til þeirra áður dómsdagur kæmi hann átti að boða þeim hina sönnu trú, hann átti að frelsa þá frá yfirráðum hins illa. Um þennan Sosiosh höfðu þeir spádóma mikla og að honum, en ekki Kristi Gyðinga, hafa vitringarnir frá austurlöndum verið að leita, er þeir komu að vöggu Krists, að minnsta kosti benda allar líkur á það.

Þá eru hugmyndirnar um dóminn og hinn æðsta dag æði líkar. Nýjatestamentið segir, að dómsdagur komi sem þjófur á nóttu, enginn veit hvenær, þá muni himnarnir með miklum gný forganga, og þá muni Kristur koma og dæma lifendur og dauða; suma lætur hann fara í ríki himnanna, en suma í víti. Þetta er æði líkt hjá Zóroaster. Þegar stjarnan steypist af himni ofan á jörðina, þá verður gnýr mikill; alt fer í logandi bál og heimur allur forgengur, rétt eins og hjá Norðmönnum er ragnarrökkri var lokið. Eftir þennan bruna jarðarinnar hjá Zóroaster, kemur Ormazd fram og dæmir alla menn og lætur þá fá laun góðverka sinna, en hegning illverka. Þessar kenningar um dóminn og annað líf, höfðu Persar áður en Gyðingar voru fluttir í herleiðinguna. Margar miljónir manna trúðu þá á annað líf og trú þessi var útbreidd um mikinn hluta Austurálfu.

Þannig má rekja grundvallarstólpa hinnar rétttrúuðu kyrkju kristinna manna, syndafallið, víti og djöful upp til hinna gömlu Persa, upp til Zóroasters. Þaðan hafa Gyðingar fengið það, og frá þeim hefir það komið niður til vor. Kristnin hefir breitt faðminn móti þessum kenningum, sem ástmey breiðir faðminn móti elskhuga sínum. Enda var það ofur eðlilegt, að þegar samgöngur fóru að aukast meðal þjóðanna, þá hafi einnig hugsanir þeirra blandast saman.

Í æðum vorum rennur þetta aryanska blóð og með blóðinu, með skildleikanum höfum vér fengið nokkuð af hugmyndum fornþjóðarinnar að erfðum, þar sem Gyðingar hafa fengið þær af samveru sinni við Persa.

En hvaða áhrif hefir þetta á hugmyndalíf vort? Þau geta verið töluverðar. Öll sú hin gamla bygging raskast. Gyðingar verða ekki þeir fyrstu menn, er skráðu um uppruna heimsins, um guð og sköpunina, um dóm og syndafall. Aðrar þjóðir, þeim óskildar höfðu þessar hugmyndir löngu fyrri, löngu fyrir daga þeirra sem þjóð. Mörg hundruð árum áður en Gyðingar fóru að skrifa bækur sínar, finnum vér þessar sömu hugmyndir, sem þar koma fram. Þær geta því ekki verið upphaflegar hjá Gyðingum, þegar þær voru til löngu fyrir daga þeirra. Þeir hafa fenkið meira eða minna af þeim að láni. Hin gamla hugmynd, að mannkynið væri alt af Nóa komið, hún fellur afveg um koll þegar menn sjá það, að hinar norrænu þjóðir t. d. geta rekið ætt sína til þjóðar einnar, hinnar forn-aryönsku þjóðar, til þjóðar, sem ekki á hið minsta skylt við ættmenn Nóa, en var til, átti meira að segja bókasöfn um og fyrir daga Abrahams, ættföður Gyðinga, því bókasafnið í Agame í Kaldeu var stofnað um eða fyrir 2000 árum fyrir Krist.

Hinir norrænu forfeður vorir hafa því hvorki snýkt eða hnuplað trúarhugmyndum sínum frá munkum og klerkum, heldur hafa þeir haft það sem heiðarlegan arf austan að, eldgamlan, er hefir lagast og sniðist eftir háttum og ásigkomulagi tímanna og landsplássanna. Þessa hefir alt til þessa ekki verið gætt, en í staðinn hefir verið otað að mönnum, hebreskum hugmyndum, hebreskum sögum og því slegið föstu, að þetta væru forfeður vorir, menn sem ekki eru oss skyldari en hesturinn hvalfiskinum, menn sem hafa tungumál svo ólík hinum aryönsku tungumálum, að engum heilvita manni getur komið til hugar að rekja ætt íslenzku t. d., til hinna hebresku eða semitisku tungumála. En tími sá er nú kominn, að menn eru farnir að gefa þessu meiri gaum, menn eru farnir að grafa hinar gömlu bókhlöður upp úr rústum eldgamalla borga, menn eru farnir

að lesa letur og mál fornþjóða, sem menn naumast dreymdi um áður, menn eru farnir að sjá hvernig trúarhugmyndirnar fyrst hafa verið í bernsku hjá þjóðunum, síðan hafa þær þroskast smátt og smátt, hafa fætt af sér ný trúarbröð, eins og ein þjóðin hefir útbreiðst og fætt af sér nýja þjóð í nýju landi. Þessar trúarhugmyndir hafa fluttst frá kyni til kyns, frá einni kynslóð til annarar, mæðurnar vagga börnum sínum kveðandi við þau trúar og helgiljóð, miklir menn þjóðanna glæða hugmyndir samtíðarmanna sinna um hinn stjórnandi alheimsföður, um annað líf og tilveruna eftir dauðann. Einn nefnir guð Johóva, annar Brahma, þriðji Zerama-Akerane, fjórdi Alföður eða Seif. Nöfnin eru ólík en veran er hin sama, og þráin, sem lýsir sér lengst fram í fornöld hjá þessum gömlu þjóðum, að finna þennan guð, að tigna hann og tilbiðja, hún hefir einlægt verið hjá mannkyninu frá því það fyrst fór að gjöra greinarmun góðs og ills. Nafnið gjörir ekkert til, hugmyndin hefir einlægt verið til. Hún breytist og lagast eftir þjóðunum sjálfum og ástandi þeirra. Hún kvíslast eins og áin, sem rennur í sjóinn eða lækurinn sem kemur ofan úr fjallshlíðinni og breiðir sig út um engið í dalnum og færir því frjófgandi og nærandi afl. Eins kvíslast þessar hugmyndir og breiða kvíslar sínar út yfir mannkynið og færa því hinn lífgandi kraft trúarinnar, svo að blómin geti sprottið og fræin geti þroskast. Það getur verið sitt nafnið á hverri kvíslinni, en alt fyrir það færa þær allar með sér lífgandi afl. Og ef vér förum að rekja uppruna þessara hugmynda, þá er því varið eins og með lækina og árnar, þær spretta sjaldnast upp í einni lind, heldur liggja til þeirra margar lindir, ein annari smærri. Í efstu upptökum lindanna síga að eins saman fáeinir dropar, en einlægt verða droparnir fleiri og fleiri, einlægt verða lindirnar sterkari og sterkari, þangað til lækurinn brýst fram beljandi og fossandi, kveðandi sigurljóð yfir torfærum og örðugleikum; hann gerir sér farveg um klungur og kletta; honum er um það að gjöra að komast áfram; hann þarf að frjófga akurlendið í dalnum. Þannig er trúin og trúarhugmyndirnar í heiminum; þær byrja smátt, efst uppi í fornöld, ein seitlan bætist við aðra, þær renna saman í fossandi læki og straumþungar ár; þær kvíslast aftur og aftur, sumstaðar ryðja þær björgum um koll, en með sér færa þær hið lífgandi afl er huggar í raununum og lætur menn vonarfulla horfa fram í ókominn tíma, yfir til landsins ókunna er vér allir stefnum að.

# Í landssýn.

Eftir

ÞORSTEIN ERLINGSSON.

---

Nei, þér tekst aldrei að gera mér geig
þó grúfirðu á ströndum og vogum;
ég sé á þér, þoka, að þú situr nú feig
því að sól fer að austan með logum;
og þá lyfta fjöllin mín bládimmri brún,
sem bíða hér voldug og fögur;
og dalirnir opnast með engjar og tún,
og íslenzkar fornkappa sögur.

Og þar áttu, fóstra, þinn framtíðar her:
þinn frjálslynda unglinga skara,
sem berst undir merkjunum vaskar en vér
og vogar þar djarfara að fara.
Ef okkur ei veitist að vinna það neitt,
er vert sé með öldum ad geymast,
þá getum vér liddurnar leitast við eitt:
að láta ekki nöfn þeirra gleymast.

Þó þokan sé meinleg og hríðin sé hörð
er hérna þó gaman að vinna
með hverjum sem elskar þig íslenzka jörð
og arfarétt barnanna þinna.
Að geymt yrði hjarta þíns heitasta blóð
og heið væri göfuga bráin —
til þess orti Jónas sín þjóðfrægu ljóð,
til þess er Jón Arason dáinn.

Eftir "Bjarka."

---

# Bréfaskrína.

VINUR Í VESTRI :— Ég sendi hr.........., sem þú minnist á í bréfinu til mín, nokkur blöð af Dagsbrún til sýnis. Eftir nokkra daga fékk ég svo frá honum aulalegt skammabréf; segist hann fyrbjóða mér að "skrifa framvegis utan á Dagsbrún til sín"; segist ekkert vilja hafa með "svoddan" guðleysisrit. Hann segist reyndar aldrei hafa lesið eitt einasta orð í blaðinu eða heyrt neitt úr því, en vita samt að það sé "guðleysis blað". Blessaður sauðurinn! Hann á marga sína líka í Ísrael.

---

KAUPANDI Í MINNEOTA :— Þökk fyrir velvildar-bréf þitt síðasta. Ég mun gefa ritstjóranum bendingar þínar, og efast ég ekki um, að hann taki þær til greina að svo miklu leyti, sem hægt er. En mundu það, vinur, að það er erfitt að gera svo öllum líki, — fyrir ritstjóra að minnsta kosti.

---

N. N. Í DAKOTA :— "Age of Reason" er mikilstil of löng bók, til þess að hægt sé að gefa hana út í Dagsbrún. Og það væri ekki réttlátt gagnvart höfundinum, né heldur kæmi það að tilætluðum notum, að taka að eins kafla og kafla hér og þar úr bókinni til birtingar.

En víst væri það gagnlegt og skemtilegt, ef hægt væri að koma annari eins snildar bók út á íslenzku.

M. PETURSSON.

---

Þeir sem skulda oss fyrir Dagsbrú eru beðnir að gera svo vel og draga nú ekki lengur að borga. Sendið dollarinn Í DAG, en dragið það ekki til morguns.

---

Gefið út af Únítarasöfnuðinum í Winnipeg.
Ritstjóri : MAGNÚS J. SKAPTASON.
686 Alexander Ave.
Féhirðir og afgreiðslumaður : MAGNÚS PÉTURSSON.
709 Alexander Ave. — Box 305.

HEIMSKRINGLA PRTG. & PUBL. CO.